Guðm. Bergþórsson:

Vína-Spegill.

Rv. 1845.

# Kvædid

# Vína=Spegill.

orkt af

Gudmundi Bergþórssyni.

Reykjavík.

Prentadur af Helga Helgasyni.

1845.

1. Fordum tíd einn brjótur brands,
bjó vid álfur Júdalands;
riddari var, en heiti hans
hermir ekki saga.
Alexander son hans var,
sveinninn afl og hreysti bar;
frægri madur fannst ei þar
fyrri um þá daga.

2. Med því hann var skilníngs skír,
skikkanlegur og vidmóts hýr,
fadir hans sagdist: seima týr
setja í skóla vilja.
Var hann þar um vetur þrjá
vísdóm miklum gjørdi ná,
fýstist og þann fródleik á
fugla=saung ad skilja.

3. Eptir lidin árin þrjú,
aptur heim svo ferdast nú;
riddarinn og hans ríka frú
runni fagna branda.

Hann í allri hegdun var
hæversklegur, menta snar,
daglega þá breytni bar
bænagjörd ad vanda.

4. Kappinn heim þá kominn var,
á kvöldi einu svo tilbar:
næturgali' í glugga þar
galadi hátt úr máta.
Riddarinn talar vid rekka-spaung:
raustin sú er fögur og laung,
hverr mér þýdir þenna saung,
þann eg vitran játa.

5. Alexander ansar til:
allan þenna saung eg skil;
síst þó ykkur segja vil,
svo mér reidist eigi;
En eg hygg, ef ad er gád,
ásett vera Drottins rád;
held eg enginn heims um láð
hindra þvílíkt megi.

6. Riddarinn sér birta bad
bráðlega, sem fuglinn kvad,
sagdist vilja víst um þad
vita þýdíng snjalla.
Fuglinn segir, sveinninn tér:
svoddan tign og hefd mig skér,

þid skulud bædi þjóna mér
og þar med herra kalla.
7. Reidast tekur riddarinn,
rædir svo vid arfa sinn:
dárlegur er þánki þinn
þad ad opinbera:
ad eg skuli þjóna þér
þín og líka módir hér;
ádur enn þetta þannig skér
þú skalt drepinn vera.
8. Sveininn flutti sjáfar til —
sannar þetta kvæda=spil —
fleygdi út á fiska=hyl,
fast í raunir dálpa.
Kvad þar skyldi kafna spá,
kémstú aldrei landid á;
þín djúpsær vitskan daudanum frá
dugar nú síst ad hjálpa.
9. Sveininn ekki sakar hót,
á sínum raunum fá mun bét;
ørdugt syndir uppá mót
yfir um báru marga.
Avalt honum áfram tekst
einatt þó í bylgjum hrekst,
eitthvad þeim til líknar legst,
sem ljúfur Gud vill bjarga.

10. Upp hann komst á eydi=skér,
annan dag þar skip ad=ber,
hrópar á þad til hjálpar sér;
hans-þeir gjørdu vitja.
Uppá sína ára=kló
adkomandi fólk hann dró,
og sídan í Egyptó
úngan mann þeir flytja.

11. Heidínginn med hreysti grein,
herra lands þar skeinkti svein;
þóktist ekki þjódin nein
þar hafa sjed hans líka.
Heina gulli hilmir af
hans jafnvægi aptur gaf.
Kaupmenn sigla kátir á haf
og kvøddu stýrir ríkja.

12. Leid þar ekki lángt í frá,
lofdúng nokkud gédi brá,
sturlan frek hann stríddi á,
stórar vøkur hafdi.
Þíng lét stefna sjóli senn
samankallar vitra menn,
hilmirs vottar hátignen,
hver til naudsýn krafdi.

13. Ødlíng málid upp svo bar:
æruverdu meistarar!

eg vil þyggja ydar svar
uppá spurníng mína:
slykkjast ad mér fuglar tveir,
frid og ró mér banna þeir,
uppá múr — kvad odda-freir, —
allar nætur hrína.

14. Hverr, sem gefur þýdíng þá,
þeirra klid mig skilur frá,
dóttur eignast mína má,
sem margir kjósa vilja.
Þeirra vard ei vitskan greid,
vísir lengi svara beid;
allir svara' á eina leid:
enginn kvadst þad skilja.

15. Alexander úngur mann,
ødlíngs finnur dróttsetann,
sjóla vil eg — sagdi hann —
saunginn fugla þýda.
Laufa-baldri þóknast þad,
þetta var svo ályktad,
ørt þeir gengu inn í stad
inn til kóngsins blída.

16. Ungur sveinn í ødlíngs rann,
upp svo málid bera vann:
þessa fugla, hana og hann,
held eg vera maka.

ygndamáli einu á,
úrskurd vilja konúngs fá,
daprir næsta døglíng hjá
dag og nótt þeir kvaka.

17. Þad eru efnis upptøkin:
ad úngann fædir módirin,
yfirgéfur svo ávøxt sinn
— art er þetta hrafna —
fadirinn umfram annast hann,
øll þau tínir korn, sem kann,
blódfjadrirnar svo med sann
sýgur og vel má dafna.

18. Af ydur vilja fuglar fá,
fljótan dóm ad leggid á:
hvert ad únginn annast má
í aldurdómi þeirra.
Fyrst ad módirin forlét hann,
fylkir aptur svara vann,
fødurinn umfram annist hann
og adstod láti' ei þverra.

19. Á burt flugu fuglarner;
fylkir þá vid sveininn tér:
dóttir mín', sú dávæn er,
darra géf eg brjóti.
Med þeim rétta rádahag
og ríkid eptir sjálfs míns dag.

Pakkar hinn með prýði plag
 plátu dýrum njóti.

20. Kappinn festi kyrtla-gná,
kóngi dvelst með æru hjá.
Alexander fræðið frá
 fyrst að sinni víki.
Keisari nokkur réð þá Róm,
rétt-trúaður í kristindóm,
helgrar trúar bjartast blóm,
 barst út um hans ríki.

21. Keisarinn, sem kynnt er mér,
kjæra átti dóttur sér,
fríðleik yfir fljóðin ber
 Flórentíu að nafni.
Skémmu bygði skykkju-þöll,
skamt á burt frá kongúngs höll,
héldt sig þar í hegðun snjöll
 hýr með vífa safni.

22. Útbarst víða um álfur lands
eðla mannorð keisarans,
flykktist þángað fjöldi manns,
 fylkirs tign að þéna.
Komu þar með kurteis géð
kóngasynir og jarla með,
mildíng sá, sem makt var léð
 metorð vann þeim léna.

23. Alexander fregn þá fær,
fóstra síns gékk bordum nær,
leyfis bidur kónginn kjær,
keisarann finna lysti.
Gakk í fridi! fylkir tér,
fylgi ætíd gjæfan þér!
velkominn aptur vertu mér,
verndadur af Kristi!

24. Kappinn finnur keisarann
kvaddi snildar-ordum hann;
skiøldúng honum skikka vann
skutul-sveins embætti.
Budlúngs standi bordum hjá,
beri fædu' og drykk þar á;
forsjállega framgékk sá,
frómur í øllum hætti.

25. Kóngsson annar kom og þar,
kénndur ad nafni Lodvík var,
karlmannlega burdi bar
bædi stór og fridur.
løgdu saman tédir tveir
trúskap sinn og ástir þeir,
engir hafa elskast meir,
ødrum hverr var blídur.

26. En svo líkir eru' ad sjá,
ødrum hver ei þekktist frá,

Alexander, innir skrá,
er þó kappinn meiri;
allra handa íþrótt vann,
ekki fannst þar frægri mann,
Lodvík ekki hálft vid hann
hádi stríd med geiri.
27. Seinna nokkud svo til bar,
sendur af kóngi lodvík var,
í þad hús, sem átti þar,
ødlíngs dóttir fríða,
hans svo ástin huganum brá,
hennar þegar prýdi sá,
af sér bera ekki má
elsku-blossann stríða.
28. Kránkur vard af kjærleik þeim,
komst hann því sem naumast heim,
nærsta lítid sinnti' um seim,
sætu þrádi únga;
finna vill því félaga sinn,
fyrir lagdist altekinn,
beinin veikjast, bliknar kinn,
blés hann einatt þúngan.
29. Alexander fór og fann
fóstbródur sinn ástkjæran.
Ertú sjúkur? sagdi hann,
svip er brugdid þínum;

Guð þér sjálfur gjøri friðt,
gét eg ei vitað meinið þitt!
heldur vildi' eg hjartað mitt
hafnaði gleðskap sínum.

30. Segðú mér nú satt þar frá,
sem þig gjørir stríða á,
elsku=bróðir! ef eg má
af þér létta kvíða;
lengur mig ei lein því hér.
Loðvík hriggur aptur tér:
utan þú bjargir aumum mér,
eg mun dauðann bíða.

31. Þegar eg døglíngs dóttir sá,
døpur sorg mig stríddi á,
ekki vil eg eða má
um það tala fleira;
fáist ei sú elsku art
ønd á burtu líður snart;
svoddan efni svo er vart,
sem þú mátt nú heyra.

32. Kappinn skilst við kránkan rekk,
í kaupstað nokkurn síðan gékk,
gripi marga fríða fékk,
frægur í manndygðinni.
Konúngs dóttur finna fer,
frúna kveður og þannig tér:

sjá! hvad Lodvík sendir þér,
sjúkur af elsku þinni.
33. Bregdur litum burdugt sprund,
brúdurin þagdi lánga stund,
tígin mælti tvinna hrund:
taladu fæst um þetta;
margt er gjørt fyrir manna ord,
mætust ansar hrínga=skord,
komst svo inn fyri keisarans bord
og kvaddi gram af létta.
34. Annan dag, sem innir skrá,
Alexander kaupir þá,
kjørgripi sem kunni fá,
koníngs=dóttur færdi.
Laufabør vid líneik tér:
Lodvík minn bad heilsa þér,
sjúkur úr máta sýndist mér,
sig hann valla bærdi.
35. Gédug ansa gullskord vann:
Gud má sjálfur lækna hann,
enga þar til konst eg kann
kraunkum bót ad vinna;
hafi' hann þøkk fyri sendíng sín,
segdu honum kvedju mín;
aptur veik frá audarlín
eydir dýnu linna.

36. Þridja daginn aptur enn
Alexander ferdast senn,
í kaupstadinn; þar margir menn
mæta gripi fengu;
allra handa, er hann sá,
edalsteina kaupir þá,
dýrri færdi dregla=gná,
þá drósir ad bordum gengu.

37. Laufatír vid líneik þar
Lodvíks kvedju enn frambar,
sagdi: ad hans sóttarfár
sídkadi mjøg til dauda;
sendir hann ydur seima=gátt,
seinast eina góda nátt,
edalsteina eignast mátt,
einnig gullid rauda.

38. Aumkast tekur audar=brú,
yfir kappans veikleik' nú;
mikil er þín trygd og trú,
taladi bauga=nanna;
er hann svo veikur, eg spyr þig:
ad hann géti' ei fundid mig?
hann ef annars hreyfir sig,
honum eg þad ei banna.

39. Kappinn þakkar kyrtla=eik,
kátur enn til Lodvíks veik;

upp hann setst og kémst á kreik,
kæru fann ad bragdi.
Kvikna tóku kjærleiks hót,
komu þau hvert ødru á mót,
ágjæt frú vid álma=njót
ástir miklar lagdi.

40. Seinna nokkud sagt er enn,
sendir þángad komu menn;
lands=Egypta sjóli senn
sagt er daudur væri.
Alexander átti strax,
eptir þad ad morgni dags
ríkur ad vitja rádahags,
rétt sem honum bæri.

41. Keisarann finnur kjærleiks=ør,
kynnti honum af sinni før,
vísir kvaddi veiga bør
í vyrdulegasta máta;
Lodvík þegar og þorna=gná
þetta fengu ad heyra' og sjá,
þeim svo illa þar vid brá,
ad þau fóru strax ad gráta.

42. Gódi Lodvík! gullskord kvad:
gjæta máttu framar ad,
honum áttu ad þakka þad
þú fékkst blídu mína;

hvar hann fer um heimsins bygd,
hans vid aldrei gleymum trygd,
heldur ást og alla dygd
eigum honum ad sýna.

43. Kvaddi sídan kappinn hýr
kesjubør og svanna skír,
sídan sté á sødla=dýr
sæmdar þegninn mæti;
fór svo heim til fósturlands,
fagna allir komu hans,
og sídan fyrir utan stans
erfdi kónglegt sæti.

44. Er þad sagt: ad ødlings frú,
ádur enn kóngi gipt var sú,
utan hjá sér átti bú,
úng og frísk í beinum,
alvarlega til amors løgd,
uppá heiminn frábær søgd,
hún í leyni hvílu=brøgd
héldt med kompán' einum.

45. Sídar nokkru Sjóli lands,
samankallar fjølda manns
brúdkaup skyldi haldast hans
um Hvítasunnudaga.
Honum svo víkur frædid frá,
framar skal af Lodvík tjá,

Alexanders saknar sá,
seggurinn hlaut því baga.

46. Annar kóngsson eptir það,
edalmannsins kom í stað:
Gedeon hét, sá budlúng bad,
bordum þéna nádi.
Limskur það í leyni sá,
laungum hleri stendur á,
ad Lodvík unni lausa=gná;
lofdúng þetta tjádi.

47. Heiptin stór í ræsir rann,
riddarann, Lodvík kallar hann,
seig mér, vinur! sagdi hann,
satt um ykkar breytni;
ef þú dylur um það mig,
eg skal betur reyna þig.
Hinn þá tók ad sverja sig,
síst var undanleitni.

48. Gedeon illi gékk þar ad,
garpurinn sterki og svo kvad:
býd eg þér til strids í stad
strax á ødrum degi.
Saklausan eg segi þig,
seggur! ef þú vinnur mig.
Gramsson þar vid gladdi sig,
þó gjøra' á skírslu megi.

49. Lodvík kémur fljóds á fund,
fréttir sagdi audargrund:
Gedeons hefir limskulund
líf mitt sett í vanda.
Sannlega eg bana bíd
byrji eg vid þann kappa stríd,
finn til rádin, falda-hlýd!
frek því meinin granda.

50. Gilfa-dóttir gaf til ans:
gakk þú inn til keisarans,
segdú frægum fylkir lands:
fadir þinn sé daudur.
Audmjúklega ødlíng þann
ordlofs bid, þú jardir hann
og ad setja einhvern mann
yfir góts og haudur.

51. Stillir því, med stolltar-sid,
stefnudaginn færa bid,
djarflega mæltu døglíng vid,
dugir ei annad núna.
Seig þad fram med sinnid snjallt,
svo þad heyri fólkid állt,
en þú halda einvíg skalt
eptir reisu búna.

52. Eptir þad med skyndi skjótt
skaltú rída dag og nótt,

Alexander finna fljótt,
félagann okkar góda;
bid þú ríkan stála staf,
strídi þig ad leysa af;
ræktu slíkt og ráð mín haf;
refla mælti tróda.

53. Lodvík inn fyrir lofdúng gékk,
leyfisbréf af kóngi fékk,
enginn fylgdi ríkum rekk;
reid hann burt med skyndi;
ber þú honum, baugs kvad lín,
blída hjartans kvedju mín,
Gud eilífur gjæti þín
og greidi þitt erindi!

54. Lodvík sinni flýtti før,
finnur ríkan stála-bør;
þá var budlúng blídu ør
brúdkaup sitt ad halda.
Virdta kvødduſt vinir þeir,
verdur af þessu gledin meir',
fadmløg med sér tóku tveir
tignir runnar skjalda.

55. Lodvík þá í leyndan stad
lofdúng med sér gánga bad,
sagdi honum sídan hvad
sér til meina bæri;

legg þú mér nú lið og ráð,
ljúfi vin! af þinni dáð;
er eg nú á yðar náð,
elsku bróðir kjæri!

56. Vant viðkominn víst er nú,
vísir mælti gjæddur trú,
því í nótt með minni frú
mun eg verða' að hvíla;
skulum þó klæðum skipta við,
skaltú halda brúðkaupið,
að eg þér veita ætla lið
ekki skaltú tvíla.

57. Sem þú kémur í sæng til frúr,
sannlega mér þá vertu trúr,
þig skal eg leysa ánauð úr,
ef minn dugar kraptur.
Skiptu þeir um skrúðann þar,
skjøldúng sté á gjarða-mar,
ferðast svo, enn fræða-svar,
fer til Loðvíks aptur.

58. Skatnar tæmdu skála-hyl,
skémtu sér við strengja spil;
hjónin gengi hvílu til
halda menn að væri.
Drengurinn frá drottníng snýst,
dauflegt henni þetta lítst,

tryggur reynast vildi víst
vyrdta madurinn kjæri.
59. Ellefu nátta taldist tíd
tók út drottníng feikna stríd,
engin sýndi atlot blíd
afreks kappinn henni;
illa vid sinn undi hag,
átti margan rauna-dag;
fljódin úng eg bid í brag
í brjóst' um hana kénni.
60. Vík eg þángad Vestra skeid,
sem vaskur kappinn burtu reid,
gramur lætur gjarda-meid
ad Grikkjalandi renna.
Kappinn finnur keisarann,
kvaddi snildar-ordum hánn;
allir þókkust afreksmann
aptur Lodvík kénna.
61. Kominn er eg med sóma síd,
sett ad prófa einvígid
Gedeon hinn grimma vid,
sem gjørt hefir oss ad rægja.
Keisarinn mun þad sjálfur sjá,
segguriun reidur mælti þá:
af mér skal hann umbun fá,
er honum vel má nægja.

62. Rekkar prýddir rønd og geir,
reyka útá vøllinn tveir;
burstéingurnar brutu þeir,
bádir á frægdir hyggja;
meidsla høggid gramur gáf,
Gedeon sneiddi høfudid af;
endti hann svo sitt óþarft skraf;
opt má satt kyrt liggja.
63. Riddarinn til hallar heim
høfudid bar af fundi þeim;
vísir talar, er veitti seim,
vard hann næsta gladur:
mjøg vel hefir þú mentir lært
og málid þitt til lykta fært,
af því eg þig elska kjært
ó, þú frómi madur!
64. Kappinn þannig komst í frid,
keisarann mælti sídan vid:
ydur eg um ordlof bid,
inn til landa minna
fljótlega eg ferdast þarf,
fallinn mér ad taka arf,
þegar er búid þetta starf
þengil vil eg finna.
65. Med því nú er naudsýn brád,
nislúng ríki fékk svo tjád:

kjæri vin! vor kóngleg náð
kann því ekki að neita.
Keisara þakkar kémpan snjøll,
kvaddi gram og menja=þøll;
honum gjørdi hyrðin øll
heiður og prís að veita.

66. Kóngur heim til ríkja reið,
randa frægan hitti meið;
allt fór það á eina leið
ástúðlega með báðum.
Þakkar honum þorna=bør,
þá var dýrðleg veitsla gjør;
Loðvík aptur flýtti før
fylkirs til með báðum.

67. Síðar nokkru, sagt er frá,
sikling deyði Agrippá,
Loðvík kóngs tilkjørinn þá
keisari varð í landi;
gékk að honnm gjæfan øll,
giptist ríkri menja=þøll,
var svo aukin veitslan snjøll;
vottað eg mánuð standi.

68. Aptur vitja orða=tal
Egypta um koníng skal:
døglíng gékk í drósar sal,
drottníng kyssa vildi;

niblúng svarar nistis = bil:
nýkomid er þetta til,
ad eg svoddan ástar il
af þér finna skyldi.

69. Ellefu nætur er — því ver —
eg hefi sofid nú hjá þér,
engin blídu atlot mér
orkadir þú ad veita;
tældir svo í trygdum mig;
til hvers fórstu ad gipta þig?
íllt er ad koma því upp um sig
Impótens ad heita.

70. Hún var þá svo heit og reid
hlaupandi frá stála = meid,
fylgimann sinn fann um leid,
fagnar halurinn vísi.
Vid kaudann mælti kyrtla lín:
kóngi skulum vid brugga vín,
svo hann beri menjar mín
medan hann heldur lísi.

71. Eptir þad — sem um eg las —
inngékk hún fyrir kóng med glas,
gribban mælti: — og gretti fas —
gott ár! kjæri herra!
Sáttar = bikar okkar er,
ádrykkjuna þygg af mér.!

lángrækpnina legg frá þér
og láttu reidi þverra.
72. Mildíng upp á móti stód,
mælti þá, og kysti fljód:
hér, mín elsku húsfrú gód!
hef' eg þig svo kjæra,
hugga nú þitt grátid géd,
gleymdu því, sem fyrr' er skéd,
þér ef lifa mætti' eg med,
mín er sæmd og æra.
73. Fadir þinn ádur eptir sig,
til arfs og landa setti mig,
ætti' eg því ad elska þig,
alla daga mína.
Kóngur svo af kérinu drakk,
kjæru gaf á móti þakk;
hann þá fyrir hjartad stakk,
holds-spillíngar pína.
74. Veikur gjördist vopna-þór,
varandi sá kvilli fór,
ad lidnum vetri líkþrá stór,
Lofdúng sást í enni;
lengi sat í læstum sal,
lítt vid adra hafdi tal;
gribban fann sinn gamla hal,
hann gékk í sæng med henni.

75. Var þad sagt 'um vetur tvo,
vyrdta madurinn þjádist svo;
einatt gjørdi augun þvo
og andvarpadi med gráti;
lengur vildu' ei lída hann
landsherrarnir spítelskann,
kappar vilja' hinn kránki mann,
konúngs tign afláti.
76. Bjúgur gékk á burt med staf,
borg og eignum rekinn af,
yfir fluttur egyptskt haf,
ýmsum raunum mætti.
Þannig marga vetur var,
vída um landid hraktist þar,
von til Guds þó vísir bar,
ad veikleika sinn bætti.
77. Laufabør af Lodvíks makt,
laungum heyrir mikid sagt,
hann á slíku hafdi vakt,
hátign þá ad líta;
stumrar því med stafinn sinn,
styrdur mjøg og uppgéfinn,
gat svo komist í Grikkland inn,
gjørdi' hann mjøg sér flýta.
78. Heim ad Lodvíks stefndi stad,
stolta vardmenn leyfis bad:

inn ad gánga, en uppá þad,
allir já til veita.
ødru fólki aumu hjá,
ytst vid dyrnar settist þá,
umhugsandi hvernig má,
hamíngjan sér breyta.

79. Skutulsveininn skrafar hann vid:
skila þig til kóngs, eg bid:
audsýndú mér aumum lid,
eptir vilja þínum,
í Guds nafni og Alexandrí,
ad eg megi af kéri því,
bergja, mínum breiskleik í,
sem ber hann ad munni sínum.

80. Sveinninn fór og budlúng bar,
bodskap hins, sem kominn var;
þengill géfur þýdlegt svar:
þad skal gjarnan vera.
Segguriun út af salnum gékk,
sem hann til þess leyfi fékk,
konúngs staup þeim kránka rekk,
kappinn gjørdi bera.

81. Lofdúng þakkar laufa-ull,
lét í staupid fíngurgull;
Lodvík hafdi linna full,
lundi géfid skjóma;

sendur kémur sveinninn þá,
setur kérid bordid á;
þengill talar, er þetta sá,
þekkti' hann báru ljóma.
82. Alexander, ó minn vin!
yfir því eg græt og styn,
ángrádur, það er ei kyn,
ef þú ert nú daudur!
edur hefir orma=lá,
ydur verid tekin frá!
ødlíng vard í ásýnd þá,
eins og dreyri raudur.
83. Sér ei halda kóngur kann,
kallar á eintal sára mann:
hverr fékk ydur hrínginn þann?
hermid mér af létta.
Enginn madur utan þú,
ansar hinn, á mína trú,
óþekkjanleg er þó nú,
ásýnd mín hin rétta.
84. Æ! hvar er nú — ansar hinn —
ástkjærasti bródir minn!
fagri líkams farfinn þinn
fordjarfadur úr máta,
Gud af sinni giædsku' og nád,
gefi mér styrk og heilnæm rád,

þar með meðøl þýð með dáð,
þig að græða láta.
85. Gjarnan vildi' eg vita mig,
veikan heldur fyri þig,
gánga svoddann gøtu=stig,
góð væru þau býti!
vanmáttugan vella=grér,
vafði Loðvík upp að sér,
á honum ei ógéð ber;
ástin hylur lýti.
86. Litlu síðar gramur greitt,
gétur smíðað húskorn eitt,
þángað fékk hann lofðúng leidt,
í leyndum svo hann væri.
Ljúfur herra lætur strax,
læknara að morgni dags,
alla vega leita lags,
lítinn krapt þó bæri.
87. Þeirra ráð ei hjálpa hót,
hann fékk enga rauna=bót;
keisarinn af kjærleiks rót,
kristna biðja lætur.
Flatur laungum féll á jørð,
framði marga bænagjørð,
fyrir ríkan fleina=njørð,
Fylkir daga' og nætur.

88. Kránkan dreymdi kesjurjód:
kóngi væri lækníng gód,
keisarans sjø ef sona blód,
sárin ádreifd væri.
Pøktist svara hetjan hrein,
heldur skyldi bera þad mein,
en úngum børnum aukist kvein,
eda þau nokkud særi.
89. Keisara til þá kom ein raust:
kóngur hefdi á Gudi traust;
Alexander efalaust
enn má græddur vera.
veiki madurinn, var svo tjád,
veit til þessa sjálfur rád,
sem Gud af sinni gjædsku' og nád
gjørt hefir opinbera.
90. Keisari' á fætur stód í stad
stallbródur sinn fann og kvad:
hefir vitrast þér um þad
ad þú munir græddur verda?
segdú mér nú satt um slíkt
sýn þitt vidmót elskuríkt;
gat um sídir géd hans mýkt
gyldur runnur sverda.
91. Dundi af augum tára-tjørn,
tiggja var svo elskan gjørn,

þó eg ætti øll mín børn,
ydar vegna ad deyda.
Ødlíng ríkur anzar þá
aukheldur þeim blód ad slá
þetta skaltú feginn fá
framar enn viltú beida.

92. Þá keisarans frú til kirkju gékk,
kóngur blódid tekid fékk,
þar í sjálfur þvodi rekk,
þá fór sem hann vildi.
Svoddan jarteikn sýndi Gud,
samt vóru børnin óskøddud;
ad þau væru aflífud,
enginn trúa skyldi.

93. Fadmar hann og fellir tár,
fylkir mælti dygda klár:
lof sé Gudi og heidur hár,
hér og um aldir alda!
ad, minn bródir ástkjæran
eg fæ líta heilbrygdan!
brádlega því bid eg hann,
burt sem fyrst ad halda.

94. Eina mílu vegar víst,
víktu' á burtu, þad mér lýst,
menn svo gruna megi síst,
milding réd svo inna.

Láttu bod um bygdir þær,
borgar gánga hlidum nær,
ad lands Egypta kóngur kjær
kominn sé mig ad finna.
95. Kónga = skrúda klædist skjótt,
kesjubør á þeirri nótt,
ødlíngs sveinar einka fljótt
út med honum rída.
Litlu sídar svo frá þeim,
sendi bod til Lodvíks heim,
ad kominn væri af kólgu eym,
kóngur Egyptskra lýda.
96. Keisarinn frúnni fregn þá ber,
fagnar hún og þannig tér:
eg vil fara út med þér,
okkar vin ad mæta.
Kvedjan sú var føgur og fín,
þá fundust þau, ad ætlan mín,
milding leida' á milli sín,
maktar gramur og sæta.
97. Pípna = saung og hørpu = hljód,
heyra mátti borgar = þjód,
inn þau leiddu ørfarjód
í hid hærsta sæti.
Keisara frúin setti svo,
sér vid hendur kónga tvo,

einatt gjørdi andlit þvo,
af fagnadar kjæti.
98. Keisarinn mælti: kjæra frú!
kémur mér til hugar nú,
manstú ekki, menjabrú,
manninn þann hinn sára?
er hér sat við okkar dyr,
engan leit eg slíkan fyr —
því, minn Herra! að þessu spyr?
þorns kvad liljan klára.
99. Vísir ansar vella-lín:
vil eg spyrja, húsfrú mín!
ef að svoddan eymd og pín,
Alexander bæri.
vildir þú þá vinna til,
vísirs heilsu, þess ei dyl,
að þinna sona, bauga bil,
blódi þveginn væri?
100. Glød því játa gullskord vann,
grunadi síst um atburd þann,
sagdi: Gud minn gódur kann,
géfa mér börnin fleiri!
Sikling mælti: svo er skéd,
sama mann eg þetta kved,
barna er græddur blódi med;
brúdurin á það heyrir.

101. Brúdurin gjørdist bleik og raud,
brjóstid kénndi heljar naud,
meinti: ad børnin mundu daud,
med andvarpi þúngu;
upp hún stód af ødlíngs bekk,
inn í þeirra húsid gékk,
lifandi øll þau líta fékk,
lofudu Gud og súngu.

102. Þar var gledi' um tún og torg,
tapadist bædi hrigd og sorg;
sikling lét í sinni borg,
sýngja messu góda.
Lodvík býtti unnar-eym,
en ad lidnum døgum þeim,
keisarinn fylgdi frægur heim,
frómum stýrir þjóda.

103. Dæmdi Lodvík døglíngs sprund,
dauda til á samri stund,
hún med sínum laufalund,
loks vóru brend á eldi.
Keisari mildur kjærleik' af,
kóngi býtti jøtna-skraf,
þar med systir sína gaf;
setst svo gramur ad veldi.

104. Leid svo fram um lánga tíd,

lofdúng ekkért hádi stríd;
fylkir hafdi fyrr og síd,
fuglsins raust í minni.
Ræsir prýddur rønd og dør,
ad riddarans gardi heldur før;
undan sendi brynju bør,
ad byrta' af komu sinni.

105. Riddarinn aptur ansa réd,
audmjúkustu lotníng' med:
mikil æra oss er skéd,
ad vor herra kjæri,
híngad kémur ad hitta mig,
hér med líka einnig þig;
hjónin bædi hneigdu sig,
hæversklega sem bæri.

106. Ræsir prýddur rønd og seim,
riddarans gékk til borgar heim,
hjónin móti hilmir þeim,
hæversklega gengu,
frægum stillir fagnande
féllu bædi sín á kné,
alla létu ást í té,
orkad mest sem fengu.

107. Þegar tækur tími var,
ad taka skyldi handlaugar,

riddarinn milding mundlaug bar,
mengrund hélt á líni,
vyrdíng honum veittu svo,
vildu konúngs fætur þvo;
ødlíng þetta yfirvo,
ad þeim heidur sýni.

108. Frá þeim snéri fljótt og grét,
fremja þetta verk ei lét;
riddarinn — sem rætt eg gét —
reidi = talar af = módi:
lítilmótleg vid erum víst,
von' er ei, ad ydur lítst,
þetta vilja þiggja síst,
þú, vor Herra gódi!

109. Kóngur gékk í klefa einn,
kallar á hjónin lyndis hreinn,
áttud þid ei arfa neinn?
eptir vil eg frétta.
Hrædsla yfir hjónin flaug,
hann er daudur! søgdu þaug,
riddarinn meinti og refla = laug,
ad ræsir vissi' ei um þetta.

110. Hvernig gékk til — hilmir kvad —
hans um dauda' og vidskilnad?
segid mér nú satt um þad,

svo mig leynid eigi.
Ottaslegin urdu hjón,
allt medkénndu þvílíkt tjón,
á kné fallandi kóngs fyri sjón,
kvidu hefndar degi.

111. Hvar fyrir breyttud þannig þid?
þengill talar manninn vid,
djarflega med dirfsku sid,
Drottins móti rádum.
Eg er sá hinn sami sveinn,
sikling mælti dygda hreinn,
hef þó til þess hug' ei neinn,
ad hefna' á ykkur bádum.

112. Heldur elska eins og ber,
ydur á medan hrøkkur fjer;
hrædslan þeirra hjartad skér,
hilmir forláts bidja;
fegins=grátur féll á hann,
fadmar þau sem mjúkast kann,
sídan heim um síldar=rann,
sínum fylgja nidja.

113. Frétti eg ei af fylkir meir,
frægur hann í elli deyr;
lofsverdugur laufa-freyr,
líka sinn fær valla.
Guð oss veiti gjæfu þá,
góðum dygðum mættum ná.
Vil eg láta vísna-skrá,
Vina-Spegil kalla.

# Kvædi

er nefnist

# Tólfsonakvædi,

eignad

Gudmundi Bergþórssyni.

---

1. Fyrdum bædi og falda úngri géfni,
færa vildi' eg gamansemdar efni,
og þeim stutton birta brag,
sem breyta eptir holdsins hag, með
heimsins lag;
Ædstur þeirra ansløgum kann breyta
og adstod hreldum veita.
2. Fyrir landi rédi og lýdum nokkurn tíma,
lofdúng sá, sem tamur var ad stíma,
drottníng átti dýra hann,
dygda sprundið sjá vel kann, um ríkan rann,
en fylkir hennar fullur var af rambi,
forsi' og miklu drambi.
3. Á því var hann optastnær ad klifa;
æ! hvað lengi mun eg fá ad lifa!
Einn spekíngur ansar þá:
aldrei muntu daudann sjá, sú er mín spá,
fyrr enn son þú hugvitsaman hefur,
og hann þér fréttir géfur.
4. Kjættist sá sem kunni ad beita geyri,
kom þá fram hans hrekkja fjøldinn meiri:
aldrei son eg eiga skal,
sem inn kémur í þennan sal, með frétta val;
lengi mun eg þá lífdagana teigja,
og loksins aldrei deya.
5. Byrjadi hann þá breytni harða' og stirda,

børn sín lét í úngdæminu myrda,
ellefu hann átti þó,
úngbörnin; med litla ró, í søltum sjó,
sonu lét hann sína alla deyda;
sá nam dygdum eyda!

6. Drottníngin var døpur af sorg og pínu,
dróg hún aldrei skart ad holdi sínu,
þeyandi bar þúngan móð,
þordi ekki ad mæla sljóð, hvad í brjósti bjó,
þúngud vard hún þó í 12ta sinni;
(þad trúi eg sagan inni).

7. Í þann tíma áféll nokkur vandi,
orrusta þar byrjadist í landi;
bjó sig ræsir, burt med þjód,
bar í huga sáran móð, fyrir sjálfs síns jóð;
af borgurunum budlúng tekur eida,
ad barnid skuli þeir deyda.

8. Á burt sídan arkadi gjætir landa,
edla frúin bídur í þúngum vanda;
ad fullum tíma fæddi son,
fékk hún af því ángurs von; en lét ei lon:
borgarana bidur hún sér ad vægja
og barnsins naudum hægja.

9. Aumkudu allir ánaud heidurs svanna,
eingin dirfdist borgarinnar manna,
ad auka hennar ófögnud,
af því hræddust sannan Gud, og hans søfnud;
miskunsemina minntust á ad hafa,
og margt um þetta skrafa.

10. Bauð þá alla barnið við að pína,
þeir báru það uppá ráðstofuna sína.
Fátækur þar bóndi bjó,
brjótur stála frómur þó, sá dygð ei dró,
biðja þeir hann barnið upp að fæða,
og búralega klæða.
11. Hélt nú ræsir heim í borg með meingi,
hann beið ekki spurnínganna leingi,
hvert búið deyða barnið sé:
birtið þettað rétt fyrir mér, svo ræsir tér;
allur játar innanborgar lýður,
og ekki lengi bíður.
12. Sat nú ræsir sorgum fyrtur og kvíða,
svo gjørðu' fram stundirnar að líða;
øðlíngs niður úngur þá,
upp fóstraðist bónda hjá, og barst lítt á,
flýkna tøtrum fyrðar um hann múra,
og føður hans nefndu búra!
13. Þá tólf ára var tiggja møgurinn svinn',
hann tók að hænast eptir móður sinni,
heimuglega hvern dag þó,
á herra garðinn leynt sig dró, þar buðl-
úng bjó;
gramur vissi' ei grand um þettað efni,
eg gét honum feigðin stefni.
14. Einhvern dag þá ítar fóru til leika,
inná hallargólfið sveinninn reikar;
konúngur segir: þrællinn þinn,
þú snáfar hér tíðum inn, eg fregn
þá sinn,

hirdir þó ei hugá minn ad kjæta,
hvad sem, gjørir ad græta.
15. Sveinninn ei vid svoddan rædu þagdi,
sér ad kóngi víkur hann og sagdi:
ekki seint og illa skal,
eg bid hlýdi þegna val, á þettad tal:
útá skóg eg arkadi' í morgun snemma,
aldin=blómann kénna.
16. Eikur sá eg ad tvær saman stódu,
ønnur græn, og var med blómi gódu,
hin var eikin føl, og fá
furdu visin lauf þar á, eg soddan sá;
laufeikina leitst mér fyrst ad reina,
lundur stáls nam greina.
17. Stakk eg hníf minn stofninn í ad bragdi,
strax úr trénu eiturgusu lagdi;
í stofninn bjúga stakk eg þá,
strax kom hunáng hnífnum á, eg sodd=
an sá;
fannst mér mikid fyrst um þettad efni,
fram þó lengra stefni.
18. Sá eg hænu sitja í lundi fínum,
sorgandi hjá únga kindum sínum,
ellefu hún átti sér,
allir daudir sýndust mér, eg segi þér;
gádu nú kóngur gløggt ad rædu minni,
og grey=samvitsku þinni.
19. En sá tólfti einn mér sýndist lifa,
upp á hennar baki var ad klifa,
undran stóra eg af því fékk!

áfram lengra þó eg gékk, um foldarbekk,
fífil-bleikan fák einn leit eg standa,
á fódri eptir vanda.

20. Reiddýr þetta Rýnar sól nam prýda,
med rauda gull um lend og fax id sída,
giltan sødul á baki bar,
búinn vel sá hófa mar, svo vænn hann var,
fagurt beisli fágad med jøtna-rómi,
frítt af saurleiks grómi.

21. Fákur þessi fullur var af drambi,
af fegurdinni stærdi sig, med rambi,
hann brá á leik og braut af sér,
búníng allan, sýndist mér, svo sundur fer,
beisli, sødull, búníngur og reidi,
hann braut sinn háls og deydi.

22. Nú vil eg ræsir rádníng seigja þér mína,
rekkurinn talar vid áheyrendur sína,
og øllum borgar múga med:
meina eg þú sért fagra tréd, sem fékk eg sjed
en drottníngin þín, dygda sprundid frída,
mun dapra eikin þýda.

23. Utvortis því ertú hladinn blóma,
þig Ædstur-gjæddi koníunglegum sóma,
hávaxin sem blómstrin bjørt,
breiddur útá cydi mørk; en ert þó ørk
ódygda, sem eitur jafnan geimir,
en edla dygdum gleymir.

24. Drottníng þín, sem dreingir meiga sanna,
døpur jafnan sjest fyrir augum manna,
eins og visid aldin-tré,

er þó full af hunángi, það hygg eg sé
guðhræðslunnar góður dygða blómi,
sem geymir svanninn fróma.

25. Við hænuna líka henni má vel jafna,
heiðurs sprundið ángistunum vafna,
sem ber hún vegna sona sín,
sára neyð og ángurs pín, því høndin þín
ellefu lét alla lífi firða,
og aumlegana myrða.

26. Eg sá tólfti af ykkar sona liði,
en nú lífi held og góðum friði,
sem verndin Drottins veitti mér,
vita skaltú hið sanna hér, hvað orðið er,
óguðlegra eyða kann sá ráði,
og allt gjøra að háði.

27. Essið það sem eg leit blómlegt standa,
orðum mínum hlýddu, gjætir landa,
mun víst hafa að merkja þig
og metorðin þín konúnglig, sem sýna sig;
fyrðar allir falla þér til fóta,
svo náða meigi njóta.

28. Brotinn háls úr býtunum muntú fánga,
sem búið hefur þér drambsemin þín lánga;
rikkt verður þér ráðum frá,
ríkið Guð mun øðrum fá, og søðull sá,
að eilífu er þér af baki dottinn;
þú ynnra hefur þess vottinn.

29. Öll þau gjæði af þér hefirðu brotið,
í ódygðanna svefni laungum hrotið;
sinn í hóp þér satan veik,

í syndinni þú brást á leik; þig listin sveik:
heimsins lyst og holdsins eptirlæti,
sú hégómlegasta kjæti.
30. Ríkum Gudi reikníng áttu ad standa,
ræsirs hágur kominn er í vanda;
fyrir barna mordin, bannsett þín,
búin er þér stærsta pín, ad ætlan mín;
ydran leingi undan hefurdu dreigid,
ad ódygdunum hleigid.
31. Eg, þinn sonur, þér nú fréttir færi,
fødurinn skyldi eg heidra, sem mér bæri;
satt og rétt eg seigi þér,
snú þér strax og ydran gér, sem best
þér ber,
hrekkja mønnum helst kann þad til falla,
sem hugleiddu þeir valla.
32. Ólmast tók nú ødlíngur í sæti,
um trú eg lítid í svørunum hann bæti,
unda nadin greip svo greidt,
ad gjæti hann tólfta son sinn deydt,
og ollum eydt;
af spakmálunum spektar mannsins fróma,
hann spennir Hildar ljóma.
33. Í því bili adkom daudinn kaldi,
ødlíng, frá eg, verkalaunin gjaldi:
aptur á bak hann datt og dó,
drengja sveitin undrast þó, sem borg
í bjó;
allir bidja ædstann Gud ad náda,
þá óhamíngju bráda.

34. Drengir jarða dauðan gjætir landa.
Døglings sonur eptir gømlum vanda,
settur var í sessinn hans,
síðan allur múgji manns, þar innan-
landds,
krýna náðu kóng með æru og sóma,
kvæðið gjørir svo róma.

35. Fyrðar þeir sem finna' að kvæðum mínum,
færi í lag, af góðviljanum sínum,
en álasi ekki mér,
því enginn hærra fleygir sér, enn fiðrið
ber,
fuglin, þó að fløkta gjøri víða;
fellur kvæðið síðan.

---

